stað, sem mun vera hinn forni vorþingsstaður Kjalarnesþings, né öðrum fornum vorþingsstöðum. — Bls. 141. Auk hinnar hringmynduðu tóftar og grjóthólsins, sem ekki reyndist mannvirki, rannsökuðu þeir Jónas eftir þessu 2 búðatóftir og athuguðu dálítið nokkrar aðrar. Sbr. e. fr. bls. 161—165 hér. — *2. Ferð suður á Vatnsleysuströnd.* Sbr. bls. 165—171 hér. — Um Kópavogs-þingstað sjá Árb. Fornlfél. 1929, bls. 1—33. — Bls. 142, 22. l. a. n., „Árni", hann var Pétursson. — 7. l. a. n., „Hofstaðir"; sbr. Árb. Fornlfél. 1903, bls. 33, og Aarb. f. nord. Oldkh. 1909, bls. 308. — Bls. 143, 21. l., „Brekka"; þar bjó þá Páll Melsted yngri, vinur Jónasar, og hefir Jónas eftir þessum dagsetningum farið þangað 24. Júní og dvalið þar næsta dag; þaðan fór hann svo 26. Júní til Hvaleyrar, næstu nótt til Flekkuvíkur og svo sunnudaginn 27. Júní þaðan aftur til Hvaleyrar, og sennilega alla leið til Reykjavíkur. — 23. l., „Bogbinder Þórarinn"; hann var Sveinsson; var hann þá einnig á Brekku; sjá um hann í „Blöndu", II., 285—88, og í „Dægradvöl", bls. 54. Síðar var Þórarinn á Eyvindarstöðum, til 1856, en hann dó 20. Jan. 1859 að Gerðum í Garði, kominn yfir áttrætt (f. 21. Ág. 1778). Upphaf ævisögu hans, ritað af honum sjálfum, er prentað í „Blöndu", II., bls. 312—49. — 6. l. a. n., „Aronshellir", þar sem Aron (Árón) Hjörleifsson ætti að hafa dulizt, er hann hafði verið gerður sekur, sbr. Sturl. s. (útg. 1906—11), I., 377—78, og Bisk. s., I., 543—44, sbr. og 629—30. — 3. l. a. n., „Tagidareller ... hellir"; eyða er í ehr. fyrir öðru nafni hellisins, og er að svo stöddu ókunnugt, hvað það er. — Bls. 144, 12.—13. l. a. n., „Þórð lóðs"; hann var Jónsson; átti heima í Grashúsum. — 9. l. a. n., „flere, store, flade Blokke" o. s. frv.; steinarnir eru alls 4, sem nokkuð er letrað á, en á 3 þeirra er þó lítið letrað. Um þessar áletranir sjá Kr. Kålund, Isl. Beskr., I., 28—29. — Bls. 145, 10. l., „Binderuner"; réttara sagt „búmerki" eða fangamörk, eins og menn höfðu á innsiglum sínum fyrrum og á ýmsu öðru. Sbr. C. G. Homeyer, Die Haus- und Hofmarken, Berlin 1870 (2. útg. 1890), og Fr. B. Wallem, En indledning til studiet af de nordiske bomærker, Aarsberetning 1902, bls. 58—105. — Árni Magnússon, Finnur Magnússon og Jón Sigurðsson hafa rannsakað og ritað um íslenzk fangamörk og safnað þeim. — 12.—13. l., „min Lommebog", þ. e. ferðakverið frá 1840; sbr. myndirnar og málin hér neðar á síðunni (bls. 145); frummyndirnar eru mikið stærri; mál vantar á sumum. Það virðist ekki rétt að lesa þau nöfn út úr sumum (5) fangamörkunum, sem hér er gert, né að líta svo á, að í þeim sé fólgin nöfn þeirra manna, sem hér er gizkað á, jafnvel þótt sum fangamörkin kunni

upphaflega að vera bandrúnir, gerðar af rúnum í ákveðnum nöfnum. Það er ekki líklegt heldur, að þessi fangamörk séu frá fornöld, né mikið eldri en þau fangamörkin eða upphafsstafirnir, sem eru úr latínuletri og eru frá 17.—18. öld; við það fangamarkið, sem hér er nr. 4, er ártalið 16—53, og við það, sem hér er nr. 15 (og er ekki alveg rétt), er ártalið 16—57. Sbr. e. fr. bls. 167—169 hér og II. b., bls. 86 og 108, og fangamörkin í Sönghelli, bls. 185—186 hér.

*Bls. 146—160.* — DAGBOG FOR SOMMERREJSEN 1841. *(Upphafið, 11.—29. Júlí).* — Ehr. í nr. 10 í abr. í hrs. Bmf. í Lbs., í sömu bók og dagbókarbrotið frá förinni til Vestmannaeyja 1837 er í; er á 26½ bls. þeim megin, sem nú er fremst; að öðru leyti er bókin auð. Yfirskriftin er: Dagbog for J. Hallgrímssons Sommerrejse 1841. — E. fr. var til í eigu Joh. Steenstrups prófessors afskrift af upphafi þessarar dagbókar, og nær það yfir 11.—15. Júlí. Er það sjálfsagt afskriftin, sem Jónas á við í bréfi sínu 8. Okt. 1841(?) til Jap. Steenstrups, sbr. II. b., bls. 113—114, m. aths. Í afskriftinni er sumt orðað lítið eitt öðruvísi en í frumr. og hefir Jónas án efa gert þær breytingar sjálfur, er hann las upp frumr. fyrir þeim, er gerðu afskriftina. Á eftir orðinu „Jórukleif“ í 6. l. á bls. 147 hefir hann bætt inn í: „der synes at tyde hen paa senere, voldsomme Rystelser og rimeligvis en betydelig Sænkning mod Østen i Egnen af Þingvallavatn“; og svo orðar hann framhaldið þannig: „Længere mod Syd knejser Tuffjældet Hengill eller Henglafjöll over Mosfellsheiðens Højland“, o. s. frv. Á eftir orðinu „Kyststrækninger“ í 19. l. er skotið inn þessu: „og strækker sig langt ind i Landet, ja endog tværs igennem det i nordøstlig Retning“. Á undan orðinu „Klukka“ á bls. 149, 12. l., stendur: „Sandgígur minni“, og á undan „Sandfell“ í næstu línu stendur: „Lambafell (?) og“. Í stað orðanna „forvildet sig i“ í 18. l. stendur: „tabt det Vejspor, som jeg fulgte, og være taget i en anden Retning over“. Með 4. l. á bls. 150 hér tekur við önnur hönd á afskriftinni; það, sem á undan er, virðist skrifað af Gunnari Hallgrímssyni. — Á eftir orðinu „Sneen“ í næstneðstu línu á bls. 151 hefir Jónas skotið inn þessari klausu, og er hver lína í henni undirstrikuð: „Skjaldbreið har saaledes aldrig været et Udbruds-Centrum for den nyere Kløftlava, saaledes som Okið, men den er en af de ældste og mest normale, moderne Vulkaner, opstaaet i et Breccielag. Den underliggende Breccie er umiskendelig, skønt svagt, hævet ved Udbrudene“. — Í staðinn fyrir „skóg“ neðst á bls. 152 stendur „fjældet“. — Í stað orðanna „der mest synes at bestaa af móberg“, á eftir orðinu „Klippe-

kløft“ á bls. 153, 12. l., stendur: „ved hvis Dannelse den har blottet mægtige Lag af nyere Masser. Breccien fra Jøkelpartiet paa Østsiden af Dalen synes her at løbe indunder Okets Dolerit“. — Á eftir dagbókinni frá 15. Júlí, sem afskriftin endar á, hefir Jónas bætt þessu við: „Jeg maa straks bemærke, at det er en Fejl, naar vi vilde sige, at Formationerne her egentl. *mødes*. — Ser du: Nordhjørnet af Okið, som vi i Fjor ansaa for Trap, er virkelig Breccie med Lavagange, omtrent som Fanntófell og aldeles hørende til det store Jøkelparti. Det samme gælder aldeles om Eiríksjökull. — Udseendet skuffer, naar Belysningen ikke er god. — Nordvesthjørnet af Okið er Enden af de mægtige Brecciemasser paa den Kant, og her hviler Breccien, som det synes, paa Trap. — Strømmene fra Okið bedækker igen Breccien. — O, jeg havde saa meget at sige dig!“ — Bls. 146, 10. l., „Regnskabsbogen“; hún mun nú glötuð. — 5. l. a. n., „førtløbende“, les „fortløbende“. — Bls. 147, 10. l., „de moderne Lavastrømme“ o. s. frv., sbr. Ferðabók Þorv. Thor., I., 218: „Hraunin hafa komið úr stórri gígaröð utan í hlíð Dyrfjallanna“ o. s. frv. — 14. l., „en Del“, prentvilla fyrir „endel.“, þ. e. „endelig“. — Bls. 148, 14. l. a. n., „Söðulhálsar“ eru nú nefndir Söðulhólar; Söðulhálsar er sennilega ritvilla. — 13. l. a. n., „Hrafnagjá“ o. s. frv. Framhald hennar þarna uppfrá mun nú kallað Söðulhólagjá. — Bls. 149, 6. l., „Dagbog fra i Fjor“, sbr. bls. 98. — 12. l., „Klukka“ kallast nú Kerling, og önnur hæð ofar Karl. — Milli Klukku (Kerlingar) og Sköflungs, sem mun s. s. Sköflungsháls, eru Skriðuhnúkur og Mjóufell (2); er farið milli þeirra allra og Skjaldbreiðar, þegar farið er norðan-með Skjaldbreið og á Skessubásaveg, en Klukka er ofan-(norðan-)við Eyfirðingaveg. — 13. l. a. n., „min gode Hest“, sbr. „Vel á götu ber mig Baldur“. Um þessa ferð sjá I. b., bls. 93—95, m. aths., og V. b., bls. CXVIII—CXIX. Sbr. einnig Dvöl, 6. ár (1906), bls. 7—8, þótt þar sé margt rangfært. — Bls. 150, 13. l. a. n., „et sammenhængende Jøkelbælte paa Bjergets Top“. Sbr. einnig bls. 151, neðst. Það er sjálfsagt, að fönn hefir verið á fjallinu efst þennan dag, 14. Júlí, en af öðrum lýsingum af Skjaldbreið frá 19. öldinni má einnig sjá, að þá hefir svo verið litið á sem verulegur jökull væri á fjallinu. Nú er þó ekki svo, en að sönnu oft miklar fannir fram eftir öllu sumri; sbr. Lýs. Ísl., II., 118—19. Í afskriftinni af þessari dagbók (sbr. hér að framan) er svohljóðandi aths. við þessi orð, skrifuð af Jónasi á röndina: „*Bemærkn.* I Efteraaret har jeg set Skjaldbr. næsten ganske blottet for Sne; den hører saaledes ikke til de egentl. jöklar“. — Hann reið frá Giljum að Svartagili 23. September. — Bls. 152, 6. l.,

„Følgemændene", Gunnar Hallgrímsson, fylgdarmaður hans á allri ferðinni, og Páll Eyjólfsson, sem þá átti heima í Skógarkoti og var fylgdarmaður hans þennan dag; síðar gullsmiður í Reykjavík. Sbr. Dvöl, 6. ár, bls. 7—8. — 8.—9. l., „Prospekt af Skjaldbreið"; það mun vera sú mynd, á sérstöku blaði, sem var í eigu Joh. Steenstrups prófessors og hér er minnkuð eftirmynd af. — 19. l., „Baldjökull" (þ. e. Balljökull); eftir uppdrætti Bjarnar Gunnlaugssonar heitir sá hluti Langjökuls, sem næstur er Kaldadal, Geitlandsjökull (sbr. bls. 153), en Balljökull norðaustar. — Bls. 153, 7. l., „3 Gaarde" o. s. frv.; sbr. einnig bls. 156. Þetta eru að eins munnmæli. Sbr. bls. 154 og einkum Kr. Kålund, Isl. Beskr., I., 326—27. E. fr. Árb. Fornlf. 1888—92, 76 og 82, og 1893, 76—77. Engar líkur eru til þess né nein gömul skrif fyrir því, að nokkur eldgos hafi orðið eða hraun brunnið á þessum slóðum síðan land byggðist. Sbr. e. fr. Ísl. þjóðs. og æfint., I., 662 (sbr. II., 112—13). — Geitlendingar eignuðust Reykholt og hafa flutt byggð sína þangað (Þórður í Reykholti var sonur Sölva í Geitlandi); en af því munu munnmælin sprottin. En ýmsar aðrar ástæður en hraunrennsli munu hafa valdið eyðingu Geitlands. — Bls. 154, 2. l., „Ligstene"; til eru legsteinar frá Húsafelli frá 17. og 18. öld, og á fyrri hluta 19. aldar gerðu þeir feðgar á Húsafelli, Jakob Snorrason og Þorsteinn Jakobsson, mjög marga og fallega legsteina, sem eru um allar nálægar sveitir; sbr. bls. 174. — 11. l., „Hr. Þ. Jakobsson", þ. e. Þorsteinn, bóndi á Húsafelli. — 11.—12. l., „Det gamle Reykholt" o. s. frv., sjá aths. við bls. 153. — 8. l. a. n., „Tungan litla"; um hana sjá einnig bls. 174—176; e. fr. Kål., Isl. Beskr., I., 337—38, og Árb. Fornlf. 1893, 75—6, og 1909, 43—46. Um gripi, sem Jónas sendi Finni Magnússyni frá Tungunni litlu, sjá II. b., bls. 133—34, m. aths. — Bls. 156, 11. l., „Den tredje" o. s. frv., sbr. aths. við bls. 153. — 15.—16. l., „sit Leje i Skoiladalen", sbr. Landnb. (útg. 1925), bls. 43. — Melrakkadalur er nú hærri en hraunið, en það hefir sennilega sigið. — 18. l., „Barnafoss" o. s. frv., sjá Ísl. þjóðs. og æfint., II., 102. — 20.—21. l.; um Surtshelli og Víðgelmi (ehr. Víðgeimur) sjá Skírni 1910, 330—51, og Ferðabók Þorv. Thor., IV., 77—78. — 2. l. a. n., „dyde", les „dybe". — Bls. 157, 4. l., „Præsterne paa Gilsbakki" o. s. frv., þ. e. séra Hjörtur Jónsson og séra Jón, sonur hans. Eftir þá eru ekki til neinar sóknalýsingar. — 7. l., „Det antikvariske" o. s. frv., sjá bls. 176. — 16. l., „Præsterne her" o. s. frv., þ. e. séra Jónas Jónsson og séra Jónas, sonur hans. Sóknarlýsingin er dagsett 2. Febr. 1842 og undirrituð af séra Jónasi eldra. Hún er í nr. 19 í abr. í hrs. Bmf. í Lbs. — 19. l.,

„Höfði"; sú sóknarlýsing (eftir séra Jónas eldra) er dags. á kyndilmessu 1840 og er í nr. 21 í abr. í sama hrs. — „Antikvariske Bemærkn.", sjá hér á eftir, bls. 176—78. — 22. l., „Antikv. Bem.", sjá bls. 178—179. — 24. l., „Legenden" o. s. frv., sjá Ísl. þjóðs. og æfint., I., 112—13. — 1. l. a. n., „Hreðuvatn", ehr. „Hreðavatn"; sbr. bls. 110, m. aths. — Bls. 158, 4.—5. l., „Ekspedition til Skúti", sbr. II. b., bls. 88. — 18.—19. l., „Antikviteter!", sjá bls. 179—180. — Bls. 159. Myndin (af Hraunsnefsöxl o. fl.) er gerð eftir pennateikningu í ehr. og er sú frummynd nokkru stærri. — Bls. 160, 6.—7. l., „Grísartunga", ehr. „Grísatunga". — 11. l. a. n., „Provst Hjalmarsen" (Hjálmarsen er prentvilla), þ. e. Þorsteinn prófastur Erlendsson Hjalmarsen. — 1. l. a. n., „E. Ó.", sbr. ferðabók Eggerts Ólafssonar, bls. 150.

*Bls. 161—194.* — UDDRAG AF DAGBØGER O. S. FRV. — Ehr. í 3 smáheftum, nr. 124—126 í 4 bl. br. í hrs. J. Sig. í Lbs.; í 1. heftinu er að strikinu á bls. 174, og stendur þar á öftustu síðu: „Fortsættes ved første Lejlighed". — Sömu orð standa á öftustu síðu í 2. hefti, sem er nokkru stærra en hin; það nær aftur að strikinu á bls. 186; 3. heftið er ekki með hendi Jónasar, en hann hefir lesið það og leiðrétt. — Bls. 161, *„Þingnes í Elliðavatn"* (talan 1. átti ekki að vera; tölusetning er að vísu við greinarnar í 1. heftinu, en ekki í hinum), sbr. bls. 137—142, m. aths. — Bls. 165, *„Kópavogs Tingsted"*, sbr. bls. 142. — Bls. 166, *„Hofstaðir"*, sbr. bls. 143—144. — Bls. 167, *„Flókasteinn"* o. s. frv., sjá bls. 144—145. — Bls. 169; uppdrátturinn er gerður eftir frum-uppdrætti Jónasar, sem er nú í nr. 3296 í 4 bl. br. í Ny kgl. Saml. í kgl. bókasafninu í Höfn, safni Finns Magnússonar af ýmsum gömlum áletrunum o. fl. á Íslandi. Jónas hefir skrifað á blaðið fyrir ofan uppdráttinn: „En Runesten paa Hvaleyri við Hafnarfjörð. — Figuren forestiller Overfladen". En fyrir neðan hefir hann skrifað: „Afbildet den 25. og 26. Juni 1841 af J. Hallgrímsson". Og e. fr.: „Anmærkning: De mange yngre Navne og Navnetræk, for det meste med latinske Bogstaver og som til Dels er huggede over Runerne, er med Flid udeladte". — Fyrir ofan þau 4 fangamörk, sem eru sett sérstök, utan-við uppdráttinn af yfirborði steinsins, hefir hann e. fr. skrifað: „Paa den sydlige Del af den nordvestlige Side". — Frummyndin er mikið stærri en myndin er hér. — Með henni eru 2 eftirmyndir, önnur gerð á gagnsæjan pappír, en hin gerð allvel í líkingu við frummyndina af Gunnari Hallgrímssyni 27. og 28. Júní 1841. Eru áskriftir Jónasar þar á íslenzku. — Gunnar var fylgdarmaður Jónasar. Dagsetningarnar á uppdráttarblaði Jónasar koma ekki heim við ferðaskýrsluna á bls. 142—

145 né dagsetningarnar á bls. 166, neðst, og 170; eftir þeim hefir Jónas verið á Hvaleyri 26. og 27. Júní. Fyrir framan greinina um „Flókastein“ (á bls. 167) setur hann þó dags. „25. Juni“, sem er sleppt hér vegna ósamræmis, þótt hún komi að sönnu heim við dagsetninguna á blaðinu. — Bls. 170. „Flekku-leiði“; um það og skrif um það sjá Kr. Kål., Isl. Beskr., I., 31. — 8. l., „hvorledes“ o. s. frv.; að sjálfsögðu hefir þessi skammstöfun átt að merkja „hér hvílir“. Áletrunin er sennilega frá 17.—18. öld, gerð vegna munnmælanna um að þarna væri „Flekka“ heygð. — „Flekka“ virðist vera ærnafn eða tíkur og ekki konu. — 20. l., „Dagbog“, vasakverið frá 1840; þar er frumrit af þessari skýrslu, ritað með blýanti á 3 bls. — Bls. 171, 14. l., „séra Pétri“, Jónssyni. — 15. l., „Páls bónda“, Vigfússonar. — 3. l. a. n., „Blótbollar“; svo eru ýmsir gamlir steinbollar nefndir, en raunar tilhæfulaust. Steinbollinn, sem var á Þingvöllum, er nú í Þjóðminjasafninu (nr. 1929). — 1. l. a. n., „sem“, les „som“. — Bls. 172, 14. l., „Th. Helgesen“, séra Þorsteinn Helgason í Reykholti, sbr. I. b., bls. 102—104, m. aths. — Um rúnasteininn frá Húsafelli (sem nú er í Þjóðminjasafninu, nr. 80) sjá Kr. Kål., Isl. Fortidslevn., bls. 48—50. — Bls. 173. Legsteinar þessir eru enn í kirkjugarðinum á Húsafelli, þar sem séra Grímur Jónsson var prestur frá 1615 til dauðadags. Engilráð, kona hans, var dóttir Jóns Loftssonar á Breiðabólsstöðum. Það er dálítið óljóst, hvernig á að lesa 1. línuna í síðara erindinu á legsteini hennar, en helzt virðist vanta framan af henni eitt orð, og að lesa eigi erindið þannig:

Þegar tvö klár
þúsund sex ár
þrjátíu og hundruð Christi
fimmtíu og þrjá
sjálf vetur sá,
so Jesú hjá
Jónsdóttir himna gisti.

Þessi legsteinn er nú brotinn sundur í miðju. — Sbr. e. fr. II. b., bls. 365. — Bls. 174, 1. l., „ulæseligt Hebraisk“; hefir ekki orðið ráðið enn. Ofan-við þá áletrun stendur það, sem er hér neðst á bls. 173, en vafasamt mun, hvort ekki skuli lesa „Gilsbakka“ fyrir „Galmannstungu“, hvort þar er orðið „kirkna“ og hvort ekki stendur öllu heldur „tilbio“ fyrir framan hebresku stafina. — 16. l. a. n., „séra Snorri“, Björnsson. — Þessi legsteinn hans hefir nú skemmst, sprungið sundur. — 9.—10. l. a. n., „Tungan litla“, sbr. bls. 154—155, m. aths. — Bls. 176. Um rúnasteininn

á Gilsbakka sjá Kr. Kål., Isl. Fortidslevn., bls. 51. Áletrunin er: „Hér hvíler Gils Jóns son Gils sonar“. — Jón Gilsson, faðir þess, sem steinninn er yfir, mun vera sonur Gils bónda Finnssonar á Ási í Hálsasveit, áður á Hömrum. Jón var bóndi í Kalmanstungu; keypti þá jörð 1398 (sbr. Fornbrs.). Um Gils yngra, son Jóns, mun lítið kunnugt. — Þessi legsteinn er enn á sama stað. — Legsteinninn með leyniletrinu er nú í kirkjugarðinum, en brotið er nú af honum, þeim endanum, sem hér er til vinstri handar, farnir 6 stafir af hvorri línu. Áletrunin byrjar að líkindum í þeirri línu, sem hér er ofar, yzt hægra megin, og á þá að lesa hana frá vinstri til hægri, þ. e.: hafa bókina öfuga fyrir sér, og síðan á að lesa hina línuna á venjulegan hátt. Áletranin hefir þó ekki orðið ráðin. Hún virðist enda á ártalinu 1719. Ef til vill á að lesa fyrri línuna: Hier hviler sá fróme mann“; en þá hafa stafirnir ekki ávalt sömu merkingu að vísu. — 7. l. a. n., „Fridricha Rasan“ virðist hafa verið þýzk, en er ókunn. — Bls. 177. Um „Snorra-stein“ og fleiri legsteina í Reykholti sjá hér að framan, bls. 107—108, m. aths. — 5. l. a. n., „Grundtegning“; hún þekkist nú ekki; en í vasakverinu stendur þetta: „Snorralaug. — Diameter 12′ og 3″. Múrinn yfir sætin 1′ 6″. Sætin á breidd 9″. Sætaþyktin c. 4″. Botninn er steinlagður. Bunustokkslengdin frá Skriflu er 58 faðmar. Hella er að framan, með loku, að hleypa öllu vatni úr lauginni. — Ofheitt (yfir 40° C.). Hefir orðið að hleypa af og láta svo standa og kólna“. Sbr. e. fr. bls. 107 hér að framan. — Bls. 178, sjá bls. 108, m. aths. — Bls. 179. Um fyrsta rúnasteininn í Norðtungu sjá bls. 109, m. aths.; um hina steinana þar sjá Kr. Kål., Isl. Fortidslevn., bls. 68, og Árb. Fornlfél. 1899, bls. 22. Á brotinu er „Þorsteinn Þo . . .“, en óvíst er, hversu ráða skal áletrunina á 3. steininum. — Um rúnasteininn í Hvammi sjá Isl. Fortidslevn., bls. 53 og 68. „Hér hvíler Þórðr Valgarðs son. Guð hans sál hafe“, stendur á steininum. Þórður er ókunnur, en geta má þess, að Valgarður Ívarsson var prestur á Húsafelli um 1470. Hann mun hafa verið faðir þess Ívars Valgarðssonar, sveins, er rúnasteinninn þaðan hefir verið sagður yfir, sbr. bls. 172 hér, og ekki er ólíklegt, að Þórður Valgarðsson hafi einnig verið sonur séra Valgarðs á Húsafelli. — Bls. 180. Um legsteinsbrotið í Hvammi sjá Isl. Fortidslevn., bls. 52—53. Á steininum stóð: „Hér hvíler Sæmundr Gamla son“. Hann mun ókunnur. — Myndirnar af peningnum eru ekki í hr., heldur í vasakverinu. — Um rúnasteininn í Stafholti sjá Isl. Fortidslevn., bls. 54, og Árb. Fornlfél. 1899, bls. 21. Hafa þeir Kr. Kål. og Björn M. Olsen ekki veitt þessari mynd eftirtekt. Steinninn er nú ekki vís. Jónas hefir

ráðið áletranina svo: „Hjer hvíler Guðmundur Jóns(s)on Guðmunds(s)onar. Hai(?)...“. — Bls. 181. Steinarnir með myndunum í Hitárdal eru vísir enn, nema sá, sem Jónas segir hafa verið ekki heilan. Sá, sem efri myndin er af, er enn í Hitárdal, en afsteypa af andlitsmyndinni á honum er til í Þjóðminjasafninu, og þar er nú einnig sá, sem neðri myndin er af. Á enni andlitsmyndarinnar virðist vera þyrnisveigur og hún því Kristsmynd. Sbr. einnig ferðabók Eggerts Ólafssonar og Bjarna Pálssonar, bls. 258—59. — Bls. 182, 8. l., „Grundtegning“; hún er í vasakverinu. Um þessar tóftir sjá Árb. Fornlfél. 1897, bls. 10. Á síðari öldum var þarna sel frá Hitárdal (sbr. Jarðabók Árna Magnússonar). — 10. l. a. n., „Bjarnarhellir“; um hann sjá ferðabók Eggerts Ólafssonar og Bjarna Pálssonar, bls. 257, og Kr. Kål., Isl. Beskr., I., 394. — Bls. 184. Rúnaáletranirnar eru aðallega upphafsstafir og fangamörk gesta og gangandi, sem komið hafa í hellinn. „EOS . 1750“ er sjálfsagt rist af Eggerti sjálfum. — Bls. 185. „Sönghellir, det er Sanghulen,“ (þannig átti að setja þetta); sjá um hann í ferðabók Eggerts Ólafssonar og Bjarna Pálssonar, bls. 273—74. — Bls. 186. Meðal áletrananna hér eru upphafsstafir Eggerts Ólafssonar og fangamark Bjarna Pálssonar frá 1754. — 8. l. a. n., „Mindesten“ o. s. frv. Hann er nú í Þjóðminjasafninu; um hann sjá m. a. Isl. Fortidslevn., bls. 54—55. — Bls. 187, 6. l. a. n., „Brønd“, þ. e. Fálki (nafnið vantar í hr.; sbr. bls. 188, 4. l.); sjá um hann m. a. Árb. Fornlfél. 1900, bls. 20, og Ferðabók Þorv. Thor., III., 50. — Bls. 188, 20. l., „Írsku-búðir“; um þær, og sagnir um þær og móðurnar, sjá Kr. Kål., Isl. Beskr., I., 420, og þau rit, sem þar er vísað til. — Bls. 189, 15. l. a. n., „séra Hannes Jónsson“, prestur til Breiðuvíkurþinga; síðar í Glaumbæ. — 14. l. a. n., „Skuiesen“, Sigfús Skúlason; sbr. II. b., bls. 89, m. aths. — 13. l. a. n., „Á. Thorlacius“, Árni Th., sem síðar skrifaði góða ritgerð um þessa sögustaði og sögulegu örnefni, sjá Safn til sögu Íslands, II. b., bls. 277—298(—303). — 12. l. a. n., „séra Grímur Pálsson“, þá uppgjafaprestur frá Helgafelli. — 11. l. a. n., „Jón paa Hrísum“ var Jónsson. — Bls. 190, 14. l., „tilskrevet“ o. s. frv., sbr. II. b., bls. 45—46. — 5. l. a. n., „Figuren“, sbr. bls. 191; sú mynd er úr vasakverinu; myndin í hr. er röng eftirmynd. Tóftin virðist helzt vera stekkjartóft. — Um þingstaðinn, blótsteininn o. fl., sjá m. a. Kr. Kål., Isl. Beskr., I., bls. 440—44, og Árb. Fornlfél. 1882, bls. 102—105, 1897, bls. 13—14, og 1900, bls. 10—11. — Bls. 191. Um bardagann á Vigrafirði, sem nú nefnist Sauravogur oftast, sjá Eyrb.-s., 45. kap. Um staðháttu sjá Kr. Kål., Isl. Beskr., I., bls. 445—47, Safn, II., bls. 294, og Árb.

Fornlfél. 1882, bls. 100—101. — 8. l. a. n., „Bakki“, þ. e. Kongsbakki. — 1. l. a. n., „Hvammur“, sbr. myndina á bls. 202. — Bls. 192, 4. l., „Bólstaður“ o. s. frv., sbr. Árb. Fornlfél. 1932, bls. 1 o. s. frv., og þau rit, sem þar er vísað til. — Bls. 193. Um legsteininn á Breiðabólstað sjá bls. 116, m. aths. Myndin er úr vasakverinu; sú, sem er í hr., er gerð eftir henni af Jónasi, að því er virðist, og er nokkru stærri. — 19. l. a. n., „Borgarholt“ o. s. frv., sjá II. b., bls. 90, m. aths. — 13. l. a. n., „Berserkjahraun“ o. s. frv., sjá Kr. Kål., Isl. Beskr., I., 432—34, og Árb. Fornlfél. 1893, bls. 22—23, og 1900, bls. 21—23. — Bls. 194. Myndirnar af merkjunum á steininum hjá Torfustöðum (svo réttara) eru úr vasakverinu; eftirmynd af annari (hinni fremri) er í hr. — Myndin af Mælifells-steini er ekki í hr., en er til á sérstöku blaði meðal annara rúnasteinamynda í safni Finns próf. Magnússonar, gerð af Jónasi 1841. Mun hún gerð eftir frummynd, sem er í vasakverinu; fyrir neðan hana stendur þar: „Mælifelli, 3-strendur. Dolerit. Varla alin“. Fyrir ofan myndina er einnig áletrunin, sem er á steininum. Um steininn sjá e. fr. Isl. Fortidslevn., bls. 61—62. Hann er með rúnum og þrídeilum, sem á að ráða þannig: „Hjer liggur Tómas Ólafs(s)on“. Guðmundur Þorláksson, cand. mag., benti á, að steinn þessi kynni að vera yfir Tómas, son Ólafs lögréttumanns á Hafgrímsstöðum, Tómassonar, prests á Mælifelli, Eiríkssonar. Sá Tómas Ólafsson mun einnig hafa verið lögréttumaður (sbr. Sýslum.-æfir, I., bls. 374). Kona séra Tómasar á Mælifelli og móðir Ólafs var Þóra, dóttir Helgu Sigurðardóttur, er fylgdi Jóni biskupi Arasyni.

*Bls. 195—208.* — ATHUGASEMDIR OG UPPDRÆTTIR. — Bls. 195, 16. l., „Finnbogasteinn“ o. s. frv. Jónas hefir, ef til vill, gert ráð fyrir að ferðast norður í Þingeyjarsýslu þetta sumar, 1841, en af því varð ekki, enda áliðið, er hann kom norður í Eyjafjörð, sbr. áfangaskrána, bls. 206—208. — Um þennan Finnbogastein sjá Kr. Kål., Isl. Beskr., II., 138. — 18. l., „Grettisbæli“ o. s. frv., sjá m. a. Árb. Fornlfél. 1924, bls. 54—56, m. myndbl. — Neðri myndin af Skjaldbreið er prentuð skáhöll, en á ekki svo að vera. — Bls. 196, 4. l., Skaftafell, les Skiptafell; sbr. bls. 153. — Bls. 197. Óvíst að svo stöddu, af hverju neðri myndin er. — Bls. 200—201. Örnefnin eru sum óljóst rituð (sennilega á hestbaki), og er óvíst, hvort þau eru öll rétt lesin. — Bls. 201, 4. l., „Berjadalur“, les „Berudalur“. Sbr. Beruvík (í 8. l.). — 16. l., „eldvarp“ (hr. „eldv.“), ætti að lesa eldvörp. — 17. l., „Írsku-búðir“; um þær sjá bls. 188. — Bls. 203. Sbr. kvæðið „Réttarvatn“, I. b., bls. 125—126. Myndin mun gerð

(20. eða) 21. Sept., sbr. áfangaskrána, bls. 208. — Bls. 205. Þessar áletranir eru skrifaðar mjög óglöggt, og með blýanti, eins og flest annað í vasakverinu. Þær eru prentaðar hér eins og þær virðast vera skrifaðar. Legsteinarnir eru allir til enn, en legsteinn Gróu Pétursdóttur ekki heill. — Ritningargreinin á legsteini Þórðar Pálssonar er úr 15., en ekki 5., sálmi, 1.—2. v. Hún er þannig í biblíunni frá 1728 (Steins-biblíu): „Drotteñ, hvør mun vera til herberges i þiñe tialldbud? — — — Hañ sem geingur fullkomeñ" — — —. — Í áletranina á legsteini Guðrúnar Árnadóttur vantar orðið „gudhrædd" á milli orðanna „hviler" og „heiðurs". — Legsteinninn frá Norðtungu er nú í Þjóðminjasafninu. — Fangamarkið á hlóðasteininum á Vindheimum er bandrún, samsett af rúnunum, sem tákna M, E og S. — Bls. 206. Jónas mun hafa séð þessa skrá yfir rit Jóns Espolins, er hann kom að Frostastöðum 16. Sept. Rit þessi komust síðar flest í hrs. Bmf. og eru nú í Lbs.; 7. er (líklega) 7—8 4to, 8. er 153—56 4to, 9. er 150 4to, 10. er 164 4to, 11. er 162 4to, 12. er 151—52 4to, 13. er 160 4to, 14. er 47—48 fol., 15. er 49 fol., 16. er 157—58 4to, 17. er 9—16 4to, 19.—20. er 159 4to, 21. er 6 4to og 22. er 5 4to; 29. er í hrs. Lbs. nr. 800, 8vo, en óvíst mun, hvar 18. er nú; í hrs. J. Sig. í Lbs., nr. 292—95 4to, mun vera afskrift af því, og önnur afskrift er nr. 41 í hrs. Rvíkurd. Bmf. í Lbs. Sbr. við þessa skrá Jónasar skrá þá, sem Pétur Pétursson, síðar biskup, hafði gert 1836 og prentuð er í Sýslum.-æfum, I., 426—30. — Bls. 207, 3. l., „Grísartungu", hr. „Grísatungu", sem er algengur (en rangur) ritháttur. — † við 25. og 26. Ág. merkir andlát Bjarna amtm. Thorarensens; hann dó aðfaranótt hins 25. (ekki 26.) Ág.; á legsteini hans er dánardagur hans talinn 24. Ág., en í prestsþjónustubókinni 25. Ág. — Bls. 208, 3. l., „Dunhaga". Þar bjó þá séra Jón Jónsson lærði, — sem sumir töldu fjölkunnugan, sbr. t. d. „Grímu", X., 20—23. — „† Bjarni" merkir greftrun Bjarna amtmanns. — 11. l., „J. E.", þ. e. Jón Espolin, sbr. bls. 206, m. aths. — 21. l., „[að] Brekku", til Páls Melsteds yngra; sbr. bréf Páls til J. Sig. (17. n. m.), bls. 20.

*Bls. 208—260.* — GEOLOGISK DAGBOG O. S. FRV. — Ehr. er ekki til, en afskrift sú, sem Jónas sendi stjórninni með bréfi sínu 9. Maí 1843, sjá II. b., bls. 145. Stjórnin sendi Jap. Steenstrup þessa afskrift með bréfi sínu 3. n. m. og hann kvittaði fyrir móttöku hennar með bréfi til konferensráðs Lunds 13. Ág. Frá Jap. Steenstrup eða að honum látnum hefir hún komizt í hrs. Hafnarháskóla; er þar nú, Add., nr. 306 fol. — Hefir Þorvaldi Thoroddsen því miður verið ókunnugt um þessa dagbók, er hann ritaði um ferðir Jónasar í Landfrs. Ísl., sbr. IV., 15. Af-

skriftin virðist hafa komið til hrs. háskólans eftir að Kr. Kålund gaf út skrá sína um íslenzk handrit þar árið 1900, og ef til vill verið ókomin þangað, er IV. b., 1. h., af Landfrs. kom út, 1903. — Dr. Jón Helgason, prófessor við Hafnarháskóla, varð var við hana og skýrði útbúanda þessara rita þegar frá því. — Afskriftin virðist vera með hendi Brynjólfs Snorrasonar, cand. philos., allt til neðst á bls. 63 í hr. (9. Sept.); þaðan og til enda dagbókarinnar sjálfrar á bls. 74 er hönd Sigurðar Hansens, cand. philos. — Efst á titilblaðinu, hægra megin, stendur: „Denne afskrift er bestemt til videnskabelig Afbenyttelse for Herr Lector J. Steenstrup i Sorø", og hefir Jónas skrifað nafn sitt undir það. Titillinn er eins og yfirskriftin hér, nema að því leyti, að á eftir orðinu „ført" er orðunum „af J. Hallgrimsen" sleppt hér úr. — Bls. 209, 13. l., „Tidsrum", þ. e. frá byrjun Júní-mánaðar og þangað til ferðin hófst, 8. Júlí. — 14. l., „Beskrivelse" o. s. frv., nú nr. 4 í abr. í hrs. Bmf. í Lbs. — 16. l., „Fortsættelsen" o. s. frv., nú nr. 126 í 4 bl. br. í hrs. J. Sig. í Lbs., sjá bls. 186—194 hér. — 19.—20. l., „Oligoklas" o. s. frv. Bréf Forchhammers er í nr. 13 í abr. í hrs. Bmf. — 9.—10. l. a. n., „fossile Knokler", sbr. IV. b., bls. 7—8, m. aths. — Bls. 210, 9.—10. l., „Krug von Niddas Beretning", þ. e. Geognostische Darstellung der Insel Island (í Archiv für Mineralogie, Geognosie, Bergbau und Hüttenkunde. Herausgegeben von C. J. B. Kortsen. VII. Bd., Berlin 1834, bls. 421—525). Um Krug v. Nidda sjá Landfrs., III., 230—32. — 15. l. a. n., „Hellisárvogur"; áin heitir réttu nafni Elliðaá og hvor kvísl hennar sömuleiðis, en vatnið, sem hún rennur úr, og vogurinn, sem hún rennur í, heita Elliðavatn og Elliðavogur. — Bls. 213, 3. l., „Huler" o. s. frv. Margir þessara heila eru víst myndaðir að nokkru eða öllu leyti af manna höndum, sbr. Árb. Fornlfél. 1930—31, bls. 1—76. — Bls. 214, 1. l., „Paradis-Hule", um þann helli sjá m. a. Kr. Kål., Isl. Beskr., I., 269—70. — 3.—4. l., „Hrútshellir o. s. frv.; sbr. Árb. Fornlfél. 1902, 24—26 um báða þessa hella. — Það er svo að sjá, sem Jónas hafi skrifað dagbók á ferð sinni undir Eyjafjöllum 1837, sbr. II. b., bls. 18, og bls. 213 hér, en ekki þekkist sú dagbók nú. — 10. l., „Paulsen, Sveinn Pálsson, læknir og náttúrufræðingur; um hann sjá Landfrs. Ísl., III., 145—85. — 11. l., „Eldbókin"; hún er nú í hrs. Lbs., nr. 210 í 4 bl. br. — 17. l., „Skaftártungur"; nú nefnist sú byggð ætíð „Skaftártunga". — Bls. 215, 1. l., „Humboldt"; hinn heimsfrægi landfræðingur og náttúrufræðingur Friedr. Wilh. Heinr. Alexander von Humboldt, f. 14. Sept. 1769, d. 6. Maí 1859. — Bls. 219, 11. l. a. n., „Prospekt"; það þekkist nú ekki, né neinar myndir frá þessari ferð. — Bls. 220, 13.—14.

l., „Heggsgerðismúli", hr. „Hregggerðismúli", sem er að vísu gamall og algengur ritháttur, en virðist rangur, sbr. Árb. Fornlfél. 1923, bls. 11. — Bls. 221, 12. l., „Viðborð", svo í Landnámabók. — Bls. 224, 14. l. a. n., „*phoca variegata*", landselur (*phoca vitulina L.)*. — Bls. 228, 1. l., *mytilus edulis*", kræklingur. — 2. l., „*cyprina Islandica*", kúfskel (í daglegu tali „kúskel"). — 16. l., „*larus canus et leucopterus*", sbr. V. b., bls. 48, fiskimár og hvítmár (eða stormmár og litli-hvítmár). — 8. l. a. n., „*pecten auritus*", eins konar hörpudiskur. — 7.—8. l., „*mya arenaria*", sandmiga. — Bls. 230, 20. l., „*pecten Islandicus*", hörpudiskur. — 21. l., „*nucula*", nit. — „*anomia sqvamula*", gluggaskel. — Bls. 235, 4. l. a. n., „Ásónastaðaháls"; venjulega er bæjarnafnið ritað Ásunnarstaðir; sbr. þó Árb. Fornlfél. 1923, bls. 95. Nafnið Ásunnarstaðir er sennilega ekki upprunalega heitið á bænum, heldur Sónastaðir eða Sonastaðir, og „á" forsetning eins og venjulega. — Bls. 236, 20. l., „Sognepræst", séra Ólafur Indriðason á Kolfreyjustað; sóknarlýsing hans, dags. í September 1841, er í nr. 18 í abr. í hrs. Bmf. í Lbs. — Bls. 243, 4. l. a. n., „Br. Vium", þ. e. Brynjúlfur Wium, Evertsson, Hanssonar sýslumanns, Jenssonar sýslumanns W. — Bls. 248, 18. l., „G. Poulsen", Guttormur Pálsson. — Bls. 249, 14. l. a. n., „Kaskaden", þ. e. Hengifoss, sbr. bls. 255, og e. fr. IV. b., bls. 232. — Bls. 250, 4. l., „Stedes", les „Steders". — Bls. 256, 8. l., „Hölkná", hr. „Holtná"; er sá ritháttur (ef til vill fyrir Höltná, eða Hólkná, sem mun venjulegra) sprottinn af röngum framburði (afbökun í tali). Sama gegnir um sama nafn á 2 öðrum smáám í sömu sýslu; er önnur á Jökuldal, en hin á Ströndum. — Bls. 260, 15. l., „Br. Wium", sbr. bls. 243, 4. l. a. n., m. aths.

*Viðaukar.* — 1. er úr vasakveri Jónasar frá ferðinni; það er nú í nr. 8 í 8 bl. br. í hrs. Bmf. í Lbs. og er eins og ferðakverið frá 1840—41. Eru þessar (o. fl.) minnisgreinar yztar annars vegar (fremst) í kverinu, en yztar hins vegar eru athuganir um ölkeldur vestra og margt fleira; í miðju kverinu er íslenzkt fuglatal á 13 blöðum, en mörg blöð auð beggja vegna við það. — Bls. 260, 6. l. a. n., „T. Steinsen" er Torfi söðlasmiður Steinsson, faðir séra Steins í Árnesi. Torfi dó 1858. — 5. l. a. n., „James Robb", sbr. I. b., bls. 152, m. aths. — Bls. 261, 2. l., „Björn Thorlaksen", Björn Þorláksson í Móum, síðar prestur á Höskuldsstöðum, d. 1862. — 4. l., „R. Möller", les „K. Møller", þ. e. Kristian Ludvig Møller, kaupmaður og veitingamaður, sonur O. P. Chr. Møllers, kaupmanns, og faðir frú Önnu Claessen (síðari konu Valgards Cl.) og þeirra systkina (sbr. Rvík 14 vetra, bls. 37 og 96, og Sögu Rvíkur, I. b., bls. 167—68). — 8. l., „min

graa“, sbr. 12. l., „En lysegraa Ridehest“, þ. e. Baldur, reiðhestur Jónasar 1841—42; sbr. I. b., bls. 93, m. aths. — Bls. 262, 2. l., „Hr. Grundtvig“, J. C. Grv., klæðskeri. — 3. l., „Hr. Hansen“, Ivar H., klæðskeri. — 8. l., „En Tur til Hjörsey“ o. s. frv.; engin vissa er fyrir því, að Jónas hafi farið þá för sjálfur; hitt líklegra, að hann hafi fengið mann til að fara eftir þessum beinum, — sem raunar voru ekki „fossil“, en sjá um þau bls. 209, m. aths. — Bls. 263, 11.—12. l., „Sv. Paulsens“, þ. e. Sveins Pálssonar, læknis; dagbækurnar eru nú nr. 1—3 í abr. í hrs. Bmf. í Lbs. — 18. l., „Th. Böðvarsson“, sbr. bls. 209, 5. l. Þorvaldur var síðar prestur í Saurbæ á Hvalfjarðarströnd. — Brauðalýsingin er í nr. 4 í abr. í hrs. Bmf. í Lbs. Sbr. V. b., bls. C. — 2. *Regning* o. s. frv., bls. 263—266. Hann er með bréfi Jónasar frá 6. Júní 1843, sbr. II. b., bls. 146—147, og e. fr. næsta bréf. — Bls. 264, „Præsten Björn Thorlaksen“, sbr. bls. 261, 2. l., m. aths.; hann var vígður 1842. — Um Steinsen, Robb, Hansen og Grundtvig sjá bls. 260—262, m. aths. — 16.—17. l. a. n., „Siemsen“, Carl Franz S., föðurbróðir amtmannsfrúar Carólínu Jonassen og þeirra systkina. Í nr. 13 í abr. í hrs. Bmf. í Lbs. er reikningur til Jónasar frá honum, dags. 15. Ág. 1843; er hann upp-á 179 rd. 30 sk., en 50 hafa verið greiddir þar af 20. Maí 1842. Hitt óskar C. Fr. S. greitt til Edvards, bróður síns. Á reikningnum er kíkirinn á 13½ rd. og úrið á 45 rd., og mátti skila því aftur óskemmdu. — 13.—14. l., „S. V. Jacobsen“ hefir líklega átt að vera Sv. Jacobsen, þ. e. Sveinbjörn J.; sjá um hann í sögu Rvíkur, einkum bls. 91 í II. b. — 12. l., „Fischer“, líklega Hermann F., bróðir Wald. F., kaupmanns. — 11. l., „M. Bjering“, Moritz Wilh. B. (d. 1857); sjá um hann í Rvík 14 vetra, bls. 39—40 einkum. — Bls. 265, 20. l., „Gæstfrihed“ o. s. frv., sbr. II. b., bls. 137, m. aths. — 12. l. a. n., „Arendal“; Jónas fékk þannig einstakt tækifæri til að koma til Noregs. — Viðv. 18. lið í reikningnum sbr. bls. 261—263 og 266, og e. fr. II. b., bls. 148. — Bls. 266. Viðv. 5. lið í reikningnum hér sbr. bls. 264, m. aths. — Um Hofteig og hofrústina þar (Goðatóftir) sjá Safn, II., bls. 437—38, Kr. Kål., Isl. Beskr., bls. 214—15, og Árb. Fornifél. 1893, bls. 49—51. — Altaristaflan frá Kirkjubæ er nr. 4635 í Þjóðminjasafninu og skírnarfonturinn er nr. 8827 (skál í honum er nr. 8514); rúmtjaldið var sent þjóðminjasafninu í Kaupmannahöfn 1818 af séra Árna Þorsteinssyni í Kirkjubæ og er nr. CXIV í safninu; þar eru mörg önnur íslenzk tjöld (eða refl-ar), en ekki mun þess getið um neitt þeirra, að það sé frá Kirkjubæ.

*Bls. 267—278.* — FEM SOMMERREJSER I ISLAND. —

Ehr. var í eigu Joh. Steenstrups, prófessors. Það er ritað á 6 samfestar kvartarkir; aftasta blaðsíða auð. Jónas nefnir ritgjörðina „J. Hallgrímssons 5 Sommerrejser i Island“. Það er uppkast með nokkrum breytingum og lagfæringum. Við þessa greinargerð um ferðalögin sbr. bréfin í II. b., er Jónas ritaði á þessum ferðum sínum og um þær, og e. fr. dagbækur hans o. fl. frá ferðalögunum, sem allt er prentað hér fyrir framan, bls. 32—266. Þessi greinargerð bætir mikið upp vöntunina á framhaldi dagbókanna 1837, 1839 og 1841, en því miður skýrir Jónas hér ekki neitt frá vesturferðinni 1840; hefir ætlað Steenstrup að gera grein fyrir henni. — Jafnframt skýrir Jónas hér stuttlega frá söfnun sóknalýsinganna, veðurathugananna og fiskveiðaskýrslnanna. Loks er stutt greinargerð um ferðina 1842. — Bls. 267, 5. l., „18. Maj“; hann fór frá Höfn 15. Maí, ekki 18.; sbr. dagbók hans frá ferðinni heim, bls. 32 hér.

*MATTH. ÞÓRÐARSON.*

---

# EFNISYFIRLIT.

